# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, JANÚAR 1903. NR. 11.

## Kenningunni um hina mannlegu niðrlæging Jesú misbeitt.

**Þýtt úr hinni nýju bók Heuchs biskups „Mod Strömmen".**

Fyrst og fremst er það þá kennt (af talsmönnum nýju guðfrœðinnar), að um hluti þessa heims, um allskonar vísindi, hafi Jesús ekki vitað meir en samtíðarmenn hans*). Hann hafi því ekki vitað betr en að jörðin stœði kyrr, og að takmörk heimsins væri ekki víðari en takmörk rómverska ríkisins. Má vel vera, að svo hafi verið. En af hverju vita guðfrœðingarnir það? Væri ekki sennilegra, ef um það væri spurt, hvort Jesús hafi þekkt Ameríku, að þá væri svarað: „Hvernig get eg vitað það? Ritningin segir ekki neitt um þesskonar hluti." En nei, það finnst mönnum ótœkt. Menn þekkja ekki það, sem ekki er á þeirra tíð orðið kunnugt. Jesús var sannr maðr, og því getr hann ekki heldr hafa haft þvílíka þekking. Yfir hitt er dregið strik, að hann auk þess var annað meira. En þótt menn þannig fari ferða sinna án þess að spyrja um, hvað ritningin segir, vilja þeir þó fegnir fá þar stuðning fyrir mál sitt, þá er þess er nokkur kostr. Þannig hefir orð drottins um það, að sólin r e n n i u p p yfir vonda og góða, í fyllstu alvöru verið notað sem sönnun fyrir því, að Jesús hafi ekki þekkt sannleikann í kenning Kopernikusar um sólkerfið; en auðvitað verða þá stjörnufrœðingar háskólans enn í dag

*) Samanber ritgjörðina í „Verði ljós!" frá Júní 1900: „Frelsarinn í lægingarstöðunni".

sekir í sömu fáfrœði; því að í almanaki hvers einasta árs tala þeir líka um sólaruppkomu og sólarlag.

Að því er að öðru leyti snertir vitund Jesú, þá er það gefið eftir, að hann hafi haft til að bera merkilega gáfu til að skilja sálarlíf manna. Meira á ekki að vera fólgið í öðrum eins orðum og þeim, að hann frá upphafi hafi vitað, að Júdas myndi svíkja hann, eða þeim, að hann hafi ekki þurft þess, að honum væri sagt, hvað í manninum bjó, eða að hann hafi þekkt Natanael áðr en hann hafði við hann talað. Já — þeir segja þetta, nýgrœðingarnir; en að benda á nokkurn, sem hafi verið samskonar hœfileika gœddr, það varast þeir vel.

En að því er það snertir, að þekkja liðna og ókomna tíð, hlaut Jesús þó víst að hafa hœfileik, sem langt tók fram hœfileik allra annarra manna. Því svo sem kunnugt er gat hann sagt: ,,Áðr en Abraham var er eg'', og með tilliti til ókominnar tíðar sjáum vér, að hann lýsir bæði nálægum atburðum og þeim, er ekki gjörast fyrr en í heimslok. Nei, allt þetta á hann að hafa haft sameiginlegt með spámönnunum. Einnig þeir gátu í sýnum sínum litið aftr og fram í tímann. Að menn skuli geta látið það út úr sér, að hin ljósa meðvitund drottins um tilveru sína frá eilífð, sem birtist í orðunum: ,,Áðr en Abraham var er eg'' — geti samlíkzt því eða því, er spámaðr getr sagt, það er í mesta máta yfirgengilegt. Spámennirnir eru þó vitanlega í öllum vitrunum sínum, öllum boðskap sínum, að eins boðberar drottins, og eiga sjálfir engan verulegan verklegan þátt í því, er þeir kunngjöra. En spádómar Krists aftr á móti eru, að því leyti sem þeir snerta ókominn tíma, fyrst og fremst vitnisburðir um hann sjálfan og opinbera því þá sjálfsmeðvitund, sem enginn spámaðr hefir nokkurn tíma haft til að bera. Engu að síðr er því þó haldið fram, eins og þegar er sagt, að alla vitund Krists um liðna og ókomna tíð, um tilveru hans frá eilífð og dómarastarf hans eftir að tíminn er runninn inn í eilífðina, skuli að eins tileinka mannlegri spádómsgáfu hans, og að í þeirri vitund sé ekkert, sem bendi til þess, að hann hafi verið langt um meira en spámaðrinn frá Nazaret — Jesús Kristr, guðs sonr, drottinn vor.

En *kenósis*-kenningin*), eins og með hana er farið á vorri tíð, nemr ekki staðar við það, að varpa skýlu yfir dýrð guðs í ásjónu Krists; hún fer svo langt, að hún gjörir orð Jesú ýmist að vitleysu eða ósannindum, og drýgir með því stóra synd.

Vér munum eftir guðspjallinu á 18. sunnudag eftir trínitatis. Þar vitnar Jesús í 110. sálm Davíðs**), upphafið á þeim sálmi, og spyr svo farísea: ,,Þar sem nú Davíð kallar hann drottin, hvernig er hann þá hans sonr?" — Og svo er það tekið fram, að enginn hafi einu orði getað svarað honum. Jesús vill sýna, að Kristr hlaut að vera miklu meira og æðra en Davíðs sonr að eins, úr því Davíð kalli hann drottin sinn. Sönnunarkraftrinn í orðum Krists er því kominn undir því, að það sé Davíð, sem í sálmi þessum kallar Krist drottin sinn. Því þótt einhver annar, sem ekki var ættfaðir Krists, hefði kallað hann drottin, þá hefði það ekkert sannað um það, að hann væri meira en sonr Davíðs. Allt er hér komið undir því, að Davíð, faðirinn, kallar son sinn d r o t t i n. Og af þessu kom það, að ,,enginn gat einu orði svarað", því allir skildu það, að hér hafði Davíð talað um Krist og játað hann sjálfum sér meiri; en hins vegar bannaði óvild þeirra við Krist þeim að kannast við, að Kristr væri meira en son Davíðs.

Jesú tókst að gjöra faríseana orðlausa, en ekki guðfræðingana vora nýju. Þeir vita það vissulega vel, hvernig á að svara honum, og geta sýnt, að hann hefir talað þar út í loftið. Því eftir því, sem þeim farast orð, hafa þeir með biblíu-'kritík' sinni komizt til vissu um það, að Davíð sé alls ekki höfundr 110. sálmsins. Reyndar áttum vér fyrir fám árum guðfræðing einn***), sem lærðari var og betr heima í gamla

*) Þ. e.: kenningin um niðrlæging Jesú í hinni mannlegu þjónsmynd hans.—Fil. 2, 7.

**) Hvað helzti talsmaðr nýju guðfræðinnar á Íslandi kennir um uppruna Davíðs sálma, þar á meðal þessa sérstaka sálms, sést í ritgjörðinni í Tímariti Bókmenntafélagsins XXII (bls, 96—98): ,,Hvernig gamla testamentið er orðið til."

***) Hér er átt við *C.P.Caspari*, kennara í guðfræði við háskólann í Kristjaníu frá 1857 til 1892.

testamentinu og um fram allt miklu miklu fœrari um að kveða upp sjálfstœða dóma en nokkur þeirra, er vér nú höfum, og hann var ekki í neinum minnsta vafa um það, að sálmr þessi væri eftir Davíð, og sama álit höfðu margir lærðir og guðhræddir menn í öðrum löndum. En á síðustu árum hefir starfi því, sem hefir það fyrir markmið að ógilda ritvissu bókanna í biblíunni, stórum þokað áfram í Þýzkalandi, hinu fyrirheitna landi „vísindanna", og svo verða guðfrœðingar vorir að dingla þar aftan við eins og bezt þeir geta; annars væri þeir ekki „vísindalegir", sem á þessum tíma er hið versta, er sagt verðr um guðfrœðinga.

Óhœfilegt með öllu er það því talið af vel menntuðum og vísindalegum guðfrœðingi að segja — eins og vér, sem miklu heldr viljum láta kalla oss „menntunarsnauða" og „óvísindalega" leikmenn en mótmæla drottni—: „Vér þurfum enga aðra sönnun fyrir því, að 110. sálmr sé eftir Davíð, en það, að Jesús sagði það og rökstuddi mál sitt með því; að hann af fávizku um sannleikann í því efni hafi farið með tóman þvætting nær engri átt. Hvað sem menn vilja hugsa um dýpt Jesú niðrlægingar, þá getr hún þó ekki hafa gengið svo langt, að faðirinn á himnum hafi ekki varnað því, að sonr hans eingetinn talaði þau orð, sem seinna á öldum reyndist vitleysa. Vér trúum því, og segjum það án blygðunar, að drottinn vor og frelsari hafi betr en öll vísindi og guðfrœði í heiminum vitað, hvernig stendr á með hinar helgu ritningar, sem andi hans hefir fram leitt."

Þegar vér tölum þannig, getum vér við engu öðru búizt af hálfu „vísindamannanna" en meðaumkunarbrosi eða fyrirlitningarglotti. Í augum þeirra er þetta auðvelt mál. Þótt ritningin segi ekkert í þá átt, vita þeir samkvæmt *kenósis*-kreddu sinni með fullkominni vissu um það, að Jesús gat ekki haft þá þekking, sem samtíðarmönnum hans var óaðgengileg; en eitt atriði þeirrar þekkingar var án alls efa biblíu-'kritíkin' nýja. Það hlaut því að vera skoðan Jesú eins og allra annarra Gyðinga, að Davíð væri höfundr Sálmanna. Og að hann talaði frá sjónarmiði þeirrar skoðunar var í alla staði eðlilegt, jafn-eðlilegt og það nú verðr vitanlegt, eftir að

sú skoðan hefir sýnt sig vera röng, að orð hans hafa engan sönnunarkraft og eru þýðingarlaus.

Ekki vil eg staðhœfa það, að hinir nyju guðfrœðingar vorir hafi löngun til að svara Jesú upp á spurning hans: „Þar sem nú Davíð kallar Krist drottin sinn, hvernig er hann þá hans sonr?" Þeir kjósa víst heldr að gjöra sér ekki ljóst, hvern dóm um Jesúm „vísindi" þeirra hafa komið þeim til að kveða upp. En ef unnt væri að neyða þá til að svara, þá hlyti þeir að segja: „Spurning þín er heimskuleg, herra minn góðr! og sýnir að eins, hve illa þú ert að þér. Því ef þér hefði verið það kunnugt, að 110. sálmr er ekki eftir Davíð, þá hefðir þú vissulega ekki getað komið með spurning þá, sem nú er ekkert vit í. Þó að oss þyki það slæmt, getum vér ekki neitað því, að þú hefir ímyndað þér, eins og svo oft vill verða óupplýstum mönnum, að þú kœmir með hnittinyrði með því, er að eins sýnir fáfrœði þína." Hver getr neitað því, að þetta lotningarlausa og nálega blygðunarlausa tal, þótt aldrei komi fram í orðum, felst í þeim dómi um Jesúm, að honum hafi skjátlazt í því, hvernig hann bar fyrir sig 110. sálminn.

Þetta tal er í rauninni að eins kenningin um niðrlæging (*kenósis*) Jesú í nýjustu mynd hennar, heimfœrð upp á eitt sérstakt atriði. Hér er um tvennt að velja: Annaðhvort hafa vísindin rangt fyrir sér — það er að segja: vísindin eins og þau nú allra síðast eru orðin, því fyrir 10—15 árum var þetta ekki fastákveðið vísindalega—; ellegar Kristi drottni vorum hefir skjátlazt. Og þá œpa þeir allir eins og Efesusmenn forðum um Díönu sína: „Mikil eru vísindi Þjóðverja! Andspænis þeim verða allir að þegja og með þeirri þögn kannast við, að þeir hafi rangt fyrir sér, líka Galíleu-spámaðrinn, Jesús frá Nazaret!"

Hvernig hlýtr nú sá prédikari, sem trúir því, að Jesú hafi skjátlazt, að vera settr, þegar hann á að fara að útleggja þennan texta? Þegar hann les: „Þessu gat enginn einu orði svarað", en hann hins vegar veit, að hann gæti svarað honum mörgum og sterkum orðum, ef hann að eins vildi, og sýnt söfnuðinum, að hér höfum vér fyrir oss tóman þvætting,

þá ætti hann að sjálfsögðu að gjöra það; því sannleika á hann þó að tala á hinum helga stað. En hann hefir víst meðvitund um, að ef hann talar eins og honum býr í brjósti, þá muni það verða til þess að rífa niðr í stað þess að byggja upp,—svo ljósa meðvitund um það, að hann vill helzt sleppa burt frá hinu mikla meginorði textans: „Hvað virðist yðr um Krist? Hvers son er hann?“—til þess að komast inn í einhvern siðfræðislegan aftrstraum, þar sem hann geti bylt sér með sporðaköstum á ýmsar hliðar þangað til sú hálfa klukkustund er úti, sem hann verðr að vera í prédikunarstólnum. Já—þeir vesalings vesalings prédikarar, sem verða að telja það heyranda til hinu fullkomna manndómseðli Jesú, að honum hafi skjátlazt, að hann hafi talað óáreiðanleg orð, þeir skulu komast að raun um, að „kenósis“-kenning þeirra, jafn-óðum og hún rennr þeim í blóð og merg, hefir í för með sér „kenósis“*) í sjálfum þeim—tœming hins andlega lífs, sem innan skamms leiðir til þess, að þeir andspænis mörgu guðs orði standa með vondri samvizku og tauta eitthvað óskiljanlegt í stað þess með djörfung og fögnuði trúarinnar að vitna um sannleikann í orðinu.

---

# Hin „hærri kritík“.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

## IV.

Í fyrirlestri þeim eftir séra Friðrik J. Bergmann, sem minnzt var á í síðasta þætti ritgjörðar þessarar, er vitanlega margt mjög vel sagt; en þó er þar all-mikið, sem virðist vera fljóthugsað, og yfir höfuð er skipulagið þannig, að örðugt er að átta sig á mörgu, sem þar stendr. Fyrirlestrinn virðist vera samsafn af hugsana-molum um þessa nýju guðfrœði, en ekki vera saminn eftir neinu föstu „plani“. Á blaðsíðu 91 stendr: „Opinberun og opinberunar-bókmenntir er nú sitt hvað í huga manna.“ Það er bent á þetta sem varanlegan árangr af gamla testamentis rannsókninni, og eiginlega er ekki bent

*) Gríska orðið *kenósis* merkir „tœming“.

á neitt annað en það sem varanlegan árangr af því starfi. Það er eins og barna sé verið að gjöra lítið úr starfi rannsóknanna, því þetta er ekkert annað en það, sem hinn sterkasti íhaldsmaðr í guðfrœði myndi viðrkenna, ekkert annað en það, sem hver maðr með andlega opin augu hlýtr að sjá, er hann les biblíuna. Það, að guð opinberast Móses á Hóreb, er vitanlega annað en það, að Móses fœrir söguna um þann atburð í letr síðar. Hver hafi fyrst skýrt þennan mismun fyrir mönnum skal eg láta ósagt; en eg hygg, að þessi skilningr hafi verið uppi í kirkjunni á undan „hærri kritíkinni". Ef varanlegr árangr af „hærri kritíkinni" er ekki meiri en þetta, þá gæti maðr sagt, að hún þyrfti alls ekki að vera til, því þetta snertir ekkert meginatriði hennar. En það getr ekki verið meining höfundarins, því það má segja, að allr fyrirlestrinn sé múrbrjótr, sem ræðst á varnargarða gömlu skoðunarinnar um innblástr biblíunnar. Það er óhætt að segja, að hann sé í heild sinni útlistun á eftirfylgjandi setning höfundarins í ritgjörð hans um þessi efni í X. árg. „Aldamóta": „Kenningin um bókstaflegan innblástr fær ekki búið undir sama þaki og þessar nýju skoðanir." Er þá verkið, sem unnið hefir verið í þarfir þessarar nýju skoðunar á innblæstrinum, ekki varanlegt? Það kemr mér svo fyrir sjónir, að þannig sé slegið úr og í í fyrirlestrinum, svo örðugt sé að átta sig á því, hver í raun og veru er meining höfundarins.

Aðdáun höfundarins fyrir rannsókn er einkennilega mikil. Alt af við og við er hann að dást að henni og hvetja menn til rannsóknar. Um lífsþrána er sagt, að hún komi fram í fegrstum búningi í rannsóknarandanum. En svo gjörir höfundrinn greinarmun á mismunandi tegundum rannsókna. Það er til frumleg rannsókn og ófrumleg rannsókn. Þeir eru taldir undr fáir, sem komast að sjálfstœðri niðrstöðu fyrir frumlega rannsókn. En allir menn eiga að taka þátt í hinni rannsókninni. Hin rannsakandi hugsun vor má því aldrei hætta. „Vér ættum því ávallt að fagna, þegar hugsun vor í þessum efnum kemst inn á nýjar brautir." Það gjörir ekkert til, hvað hættulegar og afvegaleiðandi þær brautir eru, ef þær að eins eru nýjar. Það er eins og höfundrinn sé búinn að

gjöra rannsókn að skurðgoði, og sé fallinn fram til að tilbiðja það. Úr öllu má of mikið gjöra.

Þó gjörir höfundrinn grein fyrir því, að til sé eitthvert svæði, sem sé undanþegið rannsókn. Hann segir: „Hin sáluhjálplegu trúaratriði sjálf eru hafin yfir alla rannsókn. Þau byggjast á því, sem fram fer í sálu hvers manns, milli hans og guðs sjálfs." Áðr er hann búinn að segja í sama fyrirlestrinum: „Kristindómrinn er allr söguleg opinberan. Trú vor stendr á föstum sögulegum grundvelli," og þar af leiðanda að sjálfsögðu opin fyrir allri rannsókn. — Hver getr samrímt þetta. Eg get ekki annað séð þarna en mótsögn. Það er víst hœgt að finna mótsagnir hjá fleirum en Móses. Ætti maðr af þessu að draga þá ályktan, að séra Friðrik væri ekki einn höfundr að þessum fyrirlestri, að hér sé að minnsta kosti tveimr heimildarritum skellt saman?

Það er fleira hjá höfundinum í nánu sambandi við þetta, sem stendr á veikum fœti. Yfir höfuð, þegar hann ætlar að fara að aðskilja guðs orð frá því, sem ekki er guðs orð í biblíunni, verðr röksemdafœrslan óljós og hugsanin loðin. Það verðr ervitt atriði fyrir hann, eins og fleiri af hinum nýju guðfrœðingum. Reglan, sem hann gefr fyrir aðskilnaðinum, er þessi: „Það, sem prédikar Krist og leiðir manninn til hans á einhvern hátt, það er guðs orð." Þessi partr biblíunnar, sá partrinn, sem er guðs orð, gefr höfundrinn í skyn að sé hafinn yfir alla rannsókn, því hann segir: „Allt annað eru mannlegar umbúðir, sem lúta verða sama rannsóknarlögmáli og allt annað mannlegt." Hvaða vit er nú í því að leggja að eins sumt í biblíunni fram fyrir rannsóknina? Hví ekki að leggja allt hið ritaða orð fram til rannsóknar? Eins og hún sé ekki öll, hvort sem vér viljum eða ekki, opin fyrir rannsókn, — jafnvel hvert einasta orð í henni.

Þó maðr segði nú með séra Friðrik, að sumt í ritningunni væri hafið yfir alla rannsókn, væri maðr samt til neyddr að viðrkenna, að það þyrfti að hefja rannsókn til að vita, hvað væri undanþegið, og til þess þyrfti að rannsaka alla biblíuna; svo þetta er hvað á móti öðru. En höfundrinn gjörir tilraun til að bœta dálítið úr þessu, með því að gefa

reglu fyrir því, hvernig velja eigi. En reglan, sem hann gefr, er þetta: ,,Trúarmeðvitund hvers manns segir honum, hvað sé sáluhjálpleg sannindi (= guðs orð), og hvað mannlegar umbúðir" (bls. 127). Eftir þessu verðr guðs orðið í biblíunni ekki ætíð hið sama, því vitanlega er trúarmeðvitund mannanna mismunandi. Og hvað á maðr að segja um seytjándu aldar guðfrœðingana, sem álitu alla biblíuna guðs orð. Var biblían þá öll guðs orð, en ekki nú? — eða höfðu þeir enga trúarmeðvitund?

Að þessi röksemdafœrsla hvílir á veikum grundvelli er, held eg, öllum augljóst, sem veita henni dálitla athygli. Sumt í fyrirlestrinum er sagt alveg út í hött, eins og það, að það sé alveg víst, að frelsarinn hafi haft bölbœnir Davíðs í huga, þegar hann var að hvetja lærisveina sína til að biðja fyrir óvinum sínum. Það er ekkert í guðspjöllunum, sem bendir á, að hann hafi þá haft slíkt í huga, enda gjörir höfundrinn enga tilraun til að sanna þessa staðhœfing sína.

Einna lengst í áttina frá hinu gamla gengr höfundrinn, þegar hann talar um spádómana og kraftaverkin. Að hugsa sér spádómana og kraftaverkin sem meðul til að skapa trú hjá nútíðarkynslóðinni finnst honum óhugsanda. Maðr verði þar á móti fyrst af öllu að finna Krist, og svo megi maðr til að gleypa spádómana og kraftaverkin á eftir eins og beiska lyfjakúlu. Samkvæmt þessu eru þá allir spádómarnir og allar frásagnirnar um kraftaverkin í biblíunni útilokuð frá því að vera guðs orð. Því samkvæmt skoðun höfundarins er það guðs orð í biblíunni, sem leiðir til Krists; hitt allt eru mannlegar umbúðir. Þessi staðhœfing um spádómana og kraftaverkin hefir þann kost, að hún er mjög ákveðin. Nýju guðfrœðingarnir þurfa ekki að vera í neinum vafa, þegar þeir koma að einhverju slíku í biblíunni. Undir eins og þeir koma að spádómi eða frásögu um kraftaverk þurfa þeir ekki annað en ganga fram hjá eins og prestrinn og Levítinn, ef þeir eru að leita að guðs orði Á móti þessu virðist þó vera það, að sumir kristnir Gyðingar hafa staðhœft, að þeir hafi orðið kristnir menn fyrir spádóminn í 53. kap. Esajasar. Og óneitanlega er það eitthvað undarlegt, ef kraftaverk frelsarans

hafa ekki átt að vera til að skapa trú hjá neinum. Séra Friðrik virðist gefa það eftir, að þau hafi gjört það í liðinni tíð. Hví skyldi þau ekki halda áfram að gjöra hið sama til heimsloka? Og hver er svo djarfr að segja, að einhver mikilvægasti hluti guðs orðs geti ekki með nokkru móti skapað trú hjá neinum nútíðarmanni? Veit séra Friðrik inn í hjörtu allra manna, og hvað það er, sem hefir gjört þá kristna? Getr ekki vel verið, að það hafi haft áhrif á einn í kristilega átt, sem ekki hafi haft áhrif á annan?

Að síðustu vil eg leyfa mér að spyrja: Til hvers er nú öll þessi nýja guðfrœði? Hvaða gagn hyggst hún að vinna kristindóminum? Séra Friðrik svarar því á þann hátt, að með þessu sé tekinn steinn úr götunni, — einn örðugleiki á vegi manna til að verða kristnir sé numinn burtu, sá örðugleiki nefnilega, sem gamla testamentið með sínar ófullkomnu guðshugmyndir hafi skapað. Sérstaklega á hinum ungu námsmönnum með þessu að vera ruddr vegr til kristindómsins. Til sönnunar því bendir séra Friðrik á ritgjörð í x. árg. „Aldamóta" um stúdentafélags-hreyfinguna. Röksemdafœrsla hans í þessu sambandi er mjög einkennileg. Hann segir, að nýja guðfrœðin hafi verið að ryðja sér til rúms á þessum síðustu árum, að stúdentafélags-hreyfingin hafi látið bera á sér á þessum síðustu árum. Þess vegna sé líklegt, að stúdentafélags-hreyfingin eigi rót sína að rekja til hinnar nýju guðfrœði. Að þetta er gölluð röksemdafœrsla getr hver maðr séð. Maðr gæti á sama hátt sagt: Nýja guðfrœðin hefir rutt sér til rúms á þessum síðustu tímum; Búa-stríðið átti sér stað á þessum síðustu tímum; þess vegna er líklegt, að Búastríðið hafi stafað af nýju guðfrœðinni. Séra Friðrik finnr nú samt sjálfr til þess, að þessi röksemdafœrsla er ónóg. Hann kemr þess vegna með aðra þessari til stuðnings. Hann heldr því fram, að viðburðirnir eigi sér ekki stað af tilviljun; — það sé eðlilegt samband milli hlutanna. Það er nú allt rétt. En spurningin verðr: Hvert er rétta sambandið? Svo segir höfundrinn, að námsárin sé freistingatímabil fyrir mann að falla frá trú sinni; þá hafi vanalega gamla testamentið verið einhver mesti örðugleikinn; en nú sé þeim örðugleika rutt

burtu ; — þess vegna sé stúdentarnir nú trúaðir. Hvergi er það sannað, að nýja guðfræðin hafi í raun og veru haft þessi áhrif. En í huga höfundarins er líklegt, að þetta sé svona, og svo blátt áfram slær hann því föstu, að þetta hafi átt sér stað. Þetta er nú víst röksemdafœrsla *a priori* ekki síðr en röksemdafœrsla seytjándu aldar guðfræðinganna um biblíuna. Þetta er að skapa sér fyrst einhverja hugmynd, og sníða svo viðburðina eftir því. Það er mjög notalegt að grípa til þessa, þegar manni liggr á ; en því miðr hefir svona löguð röksemdafœrsla ekkert gildi.

Sannleikrinn í þessu máli er sá, að stúdentafélags-hreyfingin fœddist við sterkasta hervirki hinna gömlu skoðana á biblíunni, sem til er í allri Ameríku, við háskólann í Princeton, og á að minnsta kosti ekkert skylt við nýju guðfræðina.



Níunda vers fyrsta kapítula Jóhannesar guðspjalls hljóðar svo í útgáfu brezka biblíufélagsins : ,,Það var hið sanna ljós, sem upplýsir hvern mann, er kom í heiminn''. En þetta vers þýðir endrskoðunarnefndin í Reykjavík svo: ,,Hið sanna ljós, sem upplýsir hvern mann, var að koma í heiminn.'' Eins er það þýtt út á spázíunni í endrskoðuðu biblíunni ensku, en önnur þýðing, sem betri hefir þótt, er þar í textanum sjálfum, þessi : ,,Það var hið sanna ljós, (það ljós) sem upplýsir hvern mann, komanda í heiminn.'' Þessi þýðing er víst heppilegri, þótt hin geti staðizt samkvæmt frumritinu gríska. Þetta er þá svo að skilja: Hið sanna ljós, sem er Kristr, upplýsir hvern mann með því að koma í heiminn.

— Jóh. 12, 27—28. Þar lesum vér svo í útgáfu brezka biblíufélagsins : ,,Nú er sál mín óróleg, og hvað skal eg segja ? Faðir, frelsa þú mig frá þessari stundu, en til þess em eg kominn, að þessi stund komi yfir mig. Faðir, gjör nafn þitt vegsamlegt.'' Þýðingin nýja frá endrskoðunarnefndinni er í öllu verulegu eins—þannig : ,,Nú er sál mín skelfd, og hvað á eg að segja ? Faðir, frelsa þú mig frá þessari stundu ; en þess vegna er eg kominn að þessari stundu.

Faðir, gjör nafn þitt dýrðlegt.“ — Í því, sem mest ríðr á, er hvorug þýðingin fullnœgjandi. Því eftir þessu má virðast svo, að Jesús hafi borið fram bœn um það, að faðir hans á himnum frelsaði hann frá „þessari stund“, sem Jesús þó alls ekki gjörði. Til þess að þetta verði ekki þannig misskilið þyrfti að setja spurningarmerki á eftir málsgreininni: „frelsa þú mig frá þessari stundu(?)“. — Jesús segir: Sál mín er angistarfull, og hvað á eg að segja? [þ. e.: hvað að biðja um?] —[Á eg að biðja svo:] ‚Faðir, frelsa mig frá þessari stund’?— En [þ. e.: Nei, því að einmitt] fyrir þessa sök [þ. e.: til þess að taka þessa angist út] kom eg til þessarar stundar. [Eg má því ekki biðja svo, heldr þannig:] ‚Faðir, gjör nafn þitt vegsamlegt’ (eða dýrðlegt). — Með svona lagaðri lausaþýðing kemr hugsan sú, er liggr í þessum orðum Jesú, rétt út. Það, sem hér er sett innan hornklofanna [ ], skýrir samanhengi málsgreinanna og sýnir þá jafnframt, að spurnarmerki þarf endilega að standa á eftir bœnarorðunum: „frelsa (þú) mig frá þessari stund“. Hér sést, hve afar mikið getr verið undir því komið, að gætt sé hinnar mestu nákvæmni, einnig í smáatriðum, við þýðing ritningarinnar. — En merkilegt er það, að spurnarmerki það, er hér var um að ræða, hefir að eins verið sett á spázíuna í endrskoðuðu biblíunni ensku.

---

Stjórn íslenzka biblíufélagsins í Reykjavík hefir með bréfi frá 15. Nóv. látið mig vita og biðr mig að gjöra safnaðalýð vorum hér vestra kunnugt, að all-miklar birgðir sé þar til af Reykjavíkr-útgáfu biblíunnar frá 1859, og sé eintakið bundið selt fyrir 5 krónur, en innheft fyrir 1 kr., þegar til muna sé keypt. — Þetta er út af því, að þeim hr. Hallgrími Sveinssyni biskupi, séra Þórhalli Bjarnarsyni lektor og öðrum stjórnendum þess félags er af kirkjuþingstíðindum vorum hinum síðustu orðið kunnugt, að íslenzkar biblíur fást hér ekki lengr til kaups, né heldr frá brezka biblíufélaginu í London, sem hefir ákveðið að prenta ekki íslenzku biblíuna að nýju fyrr en endrskoðanarverkinu, sem nefndin er að eiga við í Reykjavík, er lokið.

Í bréfi biblíufélagsins er það tekið fram, að ókleyft sé sökum burðargjaldsins að senda eitt og eitt eintak vestr hingað, en að væntanlega geti þeir menn í Reykjavík, sem umboð hafa fyrir bóksala hér, sent hingað svo mikið þaðan að heiman, að biblían verði ekki, hingað komin, að mun dýrari en þar. Hinsvegar er þess getið, að hinar innheftu biblíur sé allar nokkuð gallaðar, en þó ekki meira en svo, að þær sé vel eigandi.

Nú vildi eg því biðja presta kirkjufélagsins og aðra forstöðumenn safnaða þess og sunnudagsskóla að gjöra svo vel að grennslast eftir því, og síðan láta mig vita, hvort líklegt sé, að íslenzka biblían í þeirri útgáfu, sem hér er um að rœða, myndi nokkuð til muna verða keypt af fólki í Íslendinga-byggðunum hér nær og fjær, ef hún væri komin hingað til sölu. Þess verðr víst all-langt að bíða, að biblían íslenzka í heild sinni — nýja eða endrskoðaða þýðingin — verði prentuð, þó að við því sé búizt, að endrskoðan nýja testamentisins verði að forfallalausu lokið að tveim árum liðnum og það þá hið bráðasta gefið út sérstakt. Og bœtist ekkert við þann biblíuforða, sem nú er til í eigu Vestr-Íslendinga, fyrr en hin væntanlega nýja íslenzka biblía er komin út, þá verða víst sunnudagsskólar vorir hörmulega lengi nálega biblíulausir.

Hinar apokryfisku bœkr gamla testamentisins eru allar í Reykjavíkr-útgáfu biblíunnar frá 1859. Það þykir víst sumum kostr. En til ókosta má það telja, að hún er mjög fyrirferðarmikil og þung í vöfum, og enn fremr, að hún er með gotnesku letri, sem uppvaxandi kynslóðinni er orðið nálega ókunnugt. Gamla testamentis þýðingin þar er að öllu verulegu eins og í útgáfu brezka biblíufélagsins, en nýja testamentis þýðingin ekki.

**Jón Bjarnason.**



Að kvöldi sunnudagsins milli jóla og nýárs var á venjulegum guðsþjónustutíma haldin árslokahátíð sunnudagsskólans í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg með sama sniði sem tíðkazt hefir um mörg liðin áramót. Kirkjan var í sínu grœna jólaskrúði, ágætlega upplýst og troðfull af fólki. Fyrst var

sálmasöngr, biblíulestr og bœnagjörð stutt. Síðan var prógramm samkomunnar þetta: 1. Söngr („Oss þykir vænt um þennan stað"—sunnudagsskólaljóð eftir Hannes S. Blöndal: allr skólinn. — 2. Píanó-sóló (*Liebeslied* eftir Hensett): stúlka. —3. Resítazíón („Dýrð sé guði hæstum hæðum í"—eftir séra V. Br.): smádrengr. — 4. Resítazíón („Lof sé þér, eilífi ljósanna faðir"—eftir Sigurð J. Jóhannesson): smádrengr. — 5. Söngr (sömu ljóð): yngri börn. — 6. Resítazíón („Jesús í musterinu"—úr Biblíuljóðum, niðrlagsþáttr): drengr. — 7. Píanó-dúett (*Heather bells*—Rockstro): stúlkur tvær. —8. Resítazíón („Jesús blessar börnin"—úr Biblíuljóðum, brot): stúlka. — 9. Tríó-instrúmental („Angels' Serenade"): drengir. — 10. Ávarp frá forstöðumanni sunnudagsskólans, presti kirkjunnar. — 11. Vókal-dúett (One day nearer home"): stúlkur tvær.— 12. Upplestr (bréf Lúters til sonar hans): drengr. — 13. Söngr („Farfuglarnir"—eftir H. S. Bl.): eldri börn. — 14. Resítazíón („Ljósið hennar mömmu"—smásaga): stúlka. — 15. Vókal-sóló („Móðurmálið"—eftir Grundtvig): stúlka. — 16. Söngr („Guide me, o Thou Great Jehovah"): yngri börn. — 17. Resítazíón („Hugsjónir"—lesmál í „Kennaranum"): drengr. — 18. Söngr („Come unto me"—eftir Granahan): eldri börn. — Að niðrlagi: „Drottinn blessi mig og mína", 1. vers, og Faðir vor: allir.

---

Hr. Pétr Hjálmsson, guðfrœðiskandídat, hefir eins og við var búizt dvalið í Íslendinga-byggðinni í Alberta og í nafni kirkjufélagsins þjónað söfnuðinum þar síðan í haust allt til áramótanna. Hann hafði umboð til þess að gjöra þar öll venjuleg prestsverk eftir því, sem á þyrfti að halda og óskað væri — að hjónavígslum undanteknum, sem eigi verða hér í Canada samkvæmt borgaralegum lögum framkvæmdar af öðrum en prestvígðum mönnum. Þetta er skýrsla hans um missíónarstarf hans þar vestra:

„Eg dvaldi hálfan þriðja mánuð — frá 13. Okt. til ársloka — hjá Alberta-söfnuði. 12 sinnum prédikaði eg þar á opinberum guðsþjónustu-samkomum, skírði 6 börn, jarðsöng eitt gamalmenni, veitti um 50 manns kvöldmáltíðarsakra-

mentið, kenndi 30 unglingum kristin frœði og fermdi 16 þeirra."

,,Eg gat lítið sem ekkert gefið mig við sunnudagsskóla, en allt, sem unnt er að gjöra, að svo stöddu, í því efni, það hefir húsfrú Hólmfríðr Goodman gjört og gjörir."

,,Sökum þess, hve afskekktr þessi söfnuðr er, er þar talsvert verk fyrir trúboða fyrir hendi. En þó væri það starf bæði auðunnið og skemmtilegt; því Alberta-Íslendingar eru félagslyndir og yfirleitt hlynntir kristindóminum, og í safnarstjórn eru úrvalsmenn. Auk þess eiga Alberta-Íslendingar fáa sína líka að gestrisni og greiðvikni, hvort sem gestr kemr þangað eða dvelr þar. Velmegun og fjör lýsir sér þar, eins í safnaðar- og kirkjumálum, sem í öðrum framkvæmdum. Þó söfnuðr þessi sé í barndómi, þá á hann þó sýnilega fagra framtíð fyrir hendi."

---

**J. C. Heuch,** biskup í Norvegi, hefir fyrir skemmstu ritað bók eina, er nefnist *Mod Strömmen* (Á móti straumnum). Hún kom út seint í haust, sem leið, í Kristjaníu, og fyrir jól var búið að prenta hana þrisvar. Það er vitnisburðr gegn skynsemistrúnni, sem á síðasta áratugi hefir verið að leitast við að ná sér niðri í norsku kirkjunni með nýju guðfrœðinni, er þar hefir nú svo marga talsmenn meðal presta og preláta. Hann segist hafa þagað um það mál í lengstu lög, en nú sé hin ískyggilegu teikn tímanna uppi yfir kirkjunni lútersku þar í landi orðin svo mörg, að hann loks hafi hlotið að taka opinberlega til máls. Og tilgangr hans með bók þessari er þá líka einmitt sá, að benda kristnum almenningi á þau teikn, afhjúpa hina dularklæddu skynsemistrú í rœðum og ritum hinna yngri kennimanna og þannig, ef unnt væri, varna því, að hinn skaðvænlegi andlegi straumr flói út yfir söfnuðina og kœfi kristindómslífið þar.

Bókin er í sjö meginþáttum, sem hafa þessar fyrirsagnir: 1. Trú og kristindómr; 2. Siðgœði og líf í guði; 3. Hinn nýi boðskapr; 4. Orð krossins; 5. Jesús frá Nazaret; 6. Trúin og biblíu-'kritíkin'; 7. Bardagi í ýmsum áttum. Kaflinn, sem vér höfum snúið á íslenzku og leggjum fram fyrir lesendr ,,Sam." í þessu blaði, er úr þættinum: ,,Jesús frá

Nazaret.“ Meira úr bók þessari komum vér síðar með í ,,Sam.“, ef guð lofar.

Það er sagt, að meira sé nú í Norvegi talað um þetta nýja rit Heuchs biskups, síðan það kom út, en flest eða allt annað. Höfundrinn er einhver hinna allra frægustu kennimanna á Norðrlöndum, og sérstaklega frægr fyrir hinn kristilega trúvarnarvitnisburð sinn gegn Georg Brandes, hinum alkunna danska vantrúarpostula.

---

*BŒKR KEYPTAR* til bókasafns kirkjufélagsins á næstliðnum vetri: — 1. Vigfússon, Guðbrand, and Powell. Corpus Poeticum Boreale; The Poetry of the Northern Tongue from the earliest times to the Thirteenth Century. Vol's I—II. Oxford. Clarendon Press. 1883. — 2. Ker, W. P. Epic and Romance, Essays on Medieval Literature. London, 1897. — 3. Metcalfe, Frederick. The Englishman and the Scandinavian or a Comparison of Anglo-Saxon and Old Norse Literature. Boston. — 4 The Saga Library. Vol. I. The Story of Howard the Halt, The Story of the Banded Men, The Story of Hen Thorir. Done into English out of the Icelandic by William Morris and Eiríkr Magnússon. London 1891.— 5. The Saga Library. Vol. II. The Story of the Ere-Dwellers (Eyrbyggja saga). London 1892. — 6. The Saga Library. Vol III. The Stories of the Kings of Norway, called the Round World (Heimskringla) by Snorri Sturluson. Vol. I. London 1893. — 7. The Saga Library. Vol. IV. Heimskringla, Vol. II. London 1894. — 8. The Saga Library. Vol. V. Heimskringla, Vol. III. London 1895. — 9. The Story of Burnt Njal. By George Webbe Dasent. With a Prefatory Note, and the Introduction. Abridged from the Original Edition of 1861.

---

*SAMSKOT* til skólasjóðs kirkjufélagsins: Frá Winnipeg: Kristján Ólafsson, Jón J. Bíldfell og Magnús Paulson, $25 hver; H. S. Bardal, $15; G. .P Þórðarson, W. H. Paulson og G. Thomas. $10 hver; Finnr Jónsson, Miss S. Johnson, S. W. Melsteð, Bened. lafsson og Ó. S. Þorgeirsson, $5 hvert; Kr. Albert og Jón Goodman, $2 hvor. — Frá Mountain, N.-D.: Elís Thorvaldsson, $10; Mrs. Hallfríðr Thorvaldsson, $5; Einar Hannesson, $2.50; Daníel Daníelsson, $2. — Frá Milton, N.D.: B. T. Björnson, $10; Haraldr Pétrsson, Jóhannes Thordson, Gunnar Kristjánsson, Ólafr Einarsson og Sigfinnr Finnsson, $5 hver; Þorsteinn Goodman og S. J. Benson, $3 hvor; Helgi Pétrsson og Hermann Bjarnason, $2 hvor; Friðrik Bjarnason, $1. — Frá Garðar, N.-D.: Benedikt Jóhannesson, $5. — Frá Selkirk, Man.: Mrs. Hlaðgerðr Thorláksson, $5; Stefán Björnsson, Árni Stefánsson, Jónas Leó, lafr Nordal, Sigvaldi Nordal, Sigurðr Jóhannsson og Kristján Jonasson, $1 hver; Þorsteinn Þorkelsson og Hjörtr Jóhannesson, 50 cent. hvor; G. S. Guðmundsson, 25 c; J. Sigurðr, $2.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir ,,Sameiningarinnar“.



---

,,SAMEININGIN“ kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn“ fylgir með ,,Sam.“ í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans“ er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.“: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.